# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, ÁGÚST 1894. Nr. 6.

## Davíðs sálmr 19.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

---

(Lag: Sorgin og gleðin, þær samferða ganga.)

1. Himnanna drottinn, sem himnum býr ofar,
hátign og vegsemd þín blikandi skín;
stjarnanna fjöldinn þig ljómandi lofar,
lofandi, prísandi handaverk þín.
Festingin há,
hvelfingin blá
hermir oss skínandi dýrð þinni frá.

2. Dagrinn segir það deginum björtum,
dýrð þín og vegsemd hvað stór er og há;
nætrnar boða það nóttunum svörtum,
niðdimman skyggir ei verkin þín á.
Ljósanna tal
skilja eg skal;
skýrt hljómar raustin í himnanna sal.

3. Heimskauta milli þær raddirnar róma,
ryðja sér braut gegnum jarðríkislönd;
lof þitt með sjávarins öldum þær óma,
yzt bera nafn þitt að fjarlægri strönd.

Ljósanna fjöld,
ljómandi tjöld
lofstír þinn kveða þar öld eftir öld.

4. Brýzt fram úr skugganum skínandi dagr,
skærum hann rís upp af sækórals-stól;
braut sína rennr sem brúðgumi fagr,
brúðurin hans er hin ljómandi sól;
rennr sitt skeið,
ljómandi leið;
ljóssins er brúðganga fögr og heið.

5. Bjartara' en sólin á brúðgöngu sinni,
bjartara' en dagrinn, guð, er þitt orð.
Braut þess í heiminum hér er ei minni,
hljómar það vítt yfir sæ, yfir storð;
ómar það blítt,
hljómar það hlýtt,
heyrist um aldirnar jafnan sem nýtt.

6. Drottinn, þín lög eru dýrari' en heimr,
drottinn, þín boð eru skírari' en gull,
drottinn, þín orð eru' hinn dýrasti seimr,
drottinn, þín speki' er af réttvísi full;
drottinn, þitt ráð,
drottinn, þín náð
dýrðlegust skín þó um himin og láð.

## Burtför Ísraelsmanna úr Egyptalandi.

Til skýringar á sögu biblíunnar um burtför Ísraelsmanna úr Egyptalandi hefir dr. Trumbull, ritstjóri blaðsins *Sunday School Times* (Philadelphia) nýlega ritað ágæta ritgjörð, er stendr í því blaði. Sýnir hann þar fyrst fram á, hvernig ýmsir, sem átt hafa við þetta atriði biblíusögunnar, hafi þar fyrir misskilning og vanþekking fengið allt annað út en eðlilegt sé og í raun og veru standi í frásögu biblíunnar. Og því næst gjörir

hann sjálfr grein fyrir sögu þessari í nákvæmri samhljóðan við biblíutextann; er það meiri hluti ritgjörðarinnar, og þann kafla leggjum vér hér þýddan fram fyrir lesendr *Sam*. En nauðsynlegt er, til þess að hafa fullt gagn af greinarstúf þessum, að renna auga yfir 12.—15. kap. 2. Mósesbókar, þar sem burtfararsagan er sögð, og sömuleiðis tíu fyrstu versin framan af 33. kap. 4. Mósesbókar, þar sem stutt ágrip er aftr gefið af sömu sögunni. Uppdrátt af þeim hluta Egyptalands, sem liggr að Súez-eiðinu, væri líka gott að hafa við höndina um leið og grein þessi er lesin.

---

Ísraelsmenn voru ekki í höfuðborg hinna egypzku *faraó*-a, þá er konungsboðið gekk út um að þeir skyldi fara á stað burt úr landinu. Þeir dvöldu ekki í neinum sérstökum bœ á þeim tíma. Þeir tóku sig upp í flýti til þess að safnast saman á einn stað, en þeir þurftu engan veginn eins og flóttamenn að flýta sér sem allra mest að komast út fyrir landamœrin. Áfangarnir, sem þeir höfðu eftir að þeir lögðu af stað, voru ekki heldr heilar dagleiðir, eftir því sem sést á textanum, og áfangastaðirnir, þar sem þeir áðu eða tóku sér hvíldir, voru ekki borgir eða bœir. Þá er þeir úr ýmsum áttum söfnuðust saman á stað þeim, er þeim hafði öllum verið stefnt til í því skyni að taka sig upp þaðan allir sameiginlega, þá komu þeir þangað ekki eins og flóttamenn, heldr eins og menn, sem friðsamlega ætluðu að flytja sig burt úr landinu. Þeir höfðu enga ástæðu til að vera hræddir um, að sér yrði veitt fjandsamleg eftirför, og gáfu sér allan þann tíma, sem þeir þurftu, til undirbúnings undir næsta framhald farar sinnar.

Bústaðir Ísraelsmanna voru í *landinu Gósen*, eða öðru nafni *landinu Ramses*[1], sem var hérað eitt mikið út við landamœri Neðra-Egyptalands í austri. „Vistaborg" eða korngeymslustaðr, Raamses að nafni, var í því héraði.[2] Konungssetrið og höfuðstaðrinn í Egyptalandi var á þeirri tíð að öllum líkindum Zóan, Tanis eða San, og er eigi ólíklegt, að sá bœr hafi líka verið kallaðr Rameses[3].

---

1) Mós. 47, 11. 2) Mós. 1, 11.

3) Orðmyndirnar *Ramses* og *Raamses* og *Rameses* eru að líkindum eitt og

Móses stóð frammi fyrir *faraó* í höfuðborg landsins, Rameses eða Tanis, konungssetrinu egypzka, og Ísraelsmenn voru heima hjá sér, í „landinu Ramses" eða Gósen, þá er skipanin kom frá konunginum hina fyrstu gyðinglegu páskanótt um það að Hebrear skyldi án tafar hverfa burt frá heimkynnum sínum og leggja á stað til burtfarar þeirrar, sem þeir með svo ákaflega mikilli alvöru höfðu beiðzt samþykkis á. Látnir höfðu þeir áðr verið vita um merki það, er þeim skyldi gefið til burtfarar, og er það merki kom fram, tóku þeir sig upp, hvar sem þeir áttu heima í landinu, og héldu til stöðva þeirra út við landamœri, er þeim hafði verið stefnt til. Stöðvar þessar eru kallaðar *Súkót*. Engin ástœða er til að ætla, að allir Ísraelsmenn hafi komið til Súkóts á sama degi, með því líka sumir áttu heima langtum lengra burtu þaðan en aðrir; en eftir lengri eða skemmri tíma var allt fólkið komið á þessar stöðvar.

Svo vikum skifti höfðu Hebrear verið við því búnir að leggja upp til burtfarar frá Gósen og taka með sér hvert einasta mannsbarn, er þeim tilheyrði, og allar hjarðir sínar. Og er þeir fengu vísbendinguna frá Móses um að leggja á stað til stöðvanna, er þeir skyldi safnast saman á til hinnar sameiginlegu burtfarar, voru þeir allir til þeirrar farar búnir, og biðu þess, að sér væri merki gefið, gyrtir, með skó á fótum og stafi í höndum.

Burtför þeirra frá heimilum þeirra var á fimmtánda degi hins nýja árs, eftir tímatali Hebrea. Á fimmtánda degi hins annars mánaðar eftir burtför þeirra úr Egyptalandi komu þeir til eyðimerkrinnar Sín (2. Mós. 16, 1), sem var áttundi áfangastaðrinn eftir að þeir lögðu upp frá *Rameses-Gósen*. Ef vér athugum, hve langan tíma muni hafa þurft til dagleiðanna á þessari ferð, þá finnum vér, að það hlýtr að hafa verið einir fimmtán til tuttugu dagar, sem liðið hafa frá því þeir í mesta flýti lögðu upp frá Súkót og þangað til þeir fóru yfir Rauðahafið.

Þá er þeir voru búnir til sameiginlegrar burtfarar frá hinum almenna áfangastað í Súkót, lögðu þeir leið sína í áttina

sama orð, stafsett á mismunanda hátt. Sá Egyptalands konungr, er mestri kúgun lét beita við Ísraelslýð, hét einmitt Rameses, hinn fyrsti faraó með því nafni.

Ritst.

til nyrzta hliðsins á landamerkja-garðinum mikla, sem var Egyptalandi til varnar þar er það er áfast við austrálfuna og náði alla leið frá Miðjarðarhafinu til hafsins Rauða.[1] Garðr þessi var á hebresku kallaðr *Súr*, en á egypzku *Ketam* eða *Etam*. Þrír þjóðvegir lágu austr og út úr landinu gegnum hinn mikla landamerkjagarð: vegrinn í áttina til Fílistealands, vegrinn, sem kenndr var við garðinn og kallaðr Súrvegr, og Rauðahafs-vegrinn. Vegr sá, er fyrst var nefndr, lá nyrzt, og var um hann stytzt leiðin til Kanaanslands. Eins og búast mátti við stefndu Ísraelsmenn þangað, en er þeir voru komnir rétt að segja inn á þennan þjóðveg, tóku þeir sér hvíld við landamerkjagarðinn Etam eða skammt út frá honum.

Og nú var það, að hin undarlega skipan kom til þeirra frá drottni. Þeim var boðið að snúa við af þjóðvegi þeim, er lá til Fílistealands, og halda í gagnstæða átt suðr með öllum Etam-garðinum Egyptalandsmegin allt að suðrenda hans við Rauðahafið og setja þar búðir sínar. Guð vissi, að þessi skipan myndi þykja kynleg, og sá fyrir allt það, er af henni myndi leiða. Því þá er hann gaf hana, komst hann svo að orði: „Faraó mun segja um Ísraelsmenn: Þeir fara villir vegar (réttara: eru flæktir) í landinu; eyðimörkin hefir innibyrgt þá (nl. lokað þá inni hér í Egyptalandi). Og — — — hann skal veita þeim eftirför, og eg vil sýna almætti mitt (réttara: vinna heiðr) á faraó og öllum hans her.“

Ástæðan fyrir því, að guð vildi ekki leyfa Ísraelsmönnum að fara eftir þjóðveginum til Gaza eða Fílistealands, sem beint lá við þeim, var sú, að hann vildi varna því, að þeir — áðr en þeir höfðu fengið nokkra æfing í hernaði — lenti í ófrið við Fílistea, sem óhjákvæmilega hefði fyrir þeim legið á þeirri leið. En þetta myndi líka hafa þau áhrif á faraó, að hugr hans til Ísraelsmanna breyttist, er þeir sýndust nú orðnir svo haltrandi og hikandi með burtför sína.

Engin ástæða er til að ætla, að faraó hafi áðr en þetta kom fyrir látið sér detta í hug að veita Hebreum eftirför í því skyni að neyða þá aftr til heimkynna þeirra, sem verið höfðu. Það

1) Múrgirðing þessi, sem legið hefir nokkurn veginn þar sem nú er Súezskurðrinn (á milli heimsálfanna Asíu og Afríku), hefir verið rúmt mælistig eða um 70 enskar mílur að lengd. Ritst.

voru sorgardagar, þessir síðustu, fyrir honum og öllum hinum egypzka landslýð út af dauða frumburðanna, og hvorki konungr né aðrir óskuðu eftir Hebreum til baka. En er tíminn líðr og sú fregn er flutt konungi, að Hebrear muni víst vera ófúsir að fara burt úr Egyptalandi út í eyðimörkina, þá afræðr hann veita þeim eftirför og reka þá aftr þangað, er þeir höfðu verið, til gömlu þrælavinnunnar. Hann leggr því á stað á eftir þeim, og við botninn á Rauðahafinu lítr hann búðir þeirra.

Það er um þessar mundir ágreiningr um það, hve langt norðr Rauðahafið hafi náð á þeim dögum. En hvað sem sannast kann í því efni, þá er það víst, að landamœragarðrinn mikli, Etam, náði algjörlega yfir eiðið (Súez-eiðið) eins og það var á þeirri tíð, og að faraó náði Hebreum við suðrendann á garðinum fast við Rauðahafsbotninn. Vert er þó í þessu sambandi að taka fram, að ekki hefir nein sönnun komið fram við gröft þann, er gjörðr hefir verið í rústum hinnar fornu vistaborgar Pítom[1], um það, að Rauðahafið hafi á dögum Mósesar nokkuð að mun náð lengra norðr en það gjörir á vorri tíð. „Römmu vötnin", sem kölluð eru, þar sem bœrinn Heroopolis stóð, virðast, eftir sem skilja er á landafrœði Ptolemeusar, hafa verið tengd við Rauðahafið með skipgengum skurði, en ekki verið partr af sjálfu hafinu.

Þó að Hebrear í flýti miklum tœki sig upp frá heimkynnum sínum, þá lögðu þeir þó á stað án nokkurrar launungar, „sigri hrósandi (nákvæmar þýtt: „*með hárri hendi*"), að ásjáandi öllum Egyptum"[2]. Þeir höfðu enga ímyndan um að þeir myndi verða kallaðir tilbaka, þó að þeir, samkvæmt því, er þeim vafalaust hafði leyft verið, fœri ekki tafarlaust út fyrir landamœragarðinn. Því var það, að Ísraelsmenn urðu svo forviða, er þeir frá búðum sínum við hafið hófu upp augu sín og sáu, að Egyptar sóttu á eftir þeim[3]. Þeir urðu hræddir og freistuðust til að sjá eftir því að þeir höfðu lagt í þennan leiðangr, sem nú sýndist vera regluleg feigðarför.

Fram undan þeim var garðrinn mikli og náði allt suðr að Rauðahafi. Hliðum hans hefir nú verið lokað fyrir Hebreum, því faraó hafði þegar iðrazt burtfararleyfis þess, er hann hafði

1) Mós. 1, 11. 2) 4. Mós. 33, 3. 3) 2. Mós. 14, 10.

gefið. Og ekki gátu þeir komizt burt milli suðrenda hans og hafsins, því þar náði garðrinn alveg út í sjó. Svo ekkert sýndist undanfœri fyrir Ísraelsmenn, hvergi unnt að flýja undan faraó, er hann, ugglaus um sigrsæld sína, nálgaðist þá með her sínum. Engu að síðr bauð guð þeim að ganga fram, og mátti ómögulegt virðast að hlýðnast þeirri skipan.

En þá var það, að skýið, sem verið hafði fyrir framan Ísraelsmenn, „hóf sig upp og staðnæmdist að baki þeirra", og mátti þá óvinaherinn, er eftir þeim sótti, eigi sjá þá. Drottinn lét hvassan vind bœgja hafinu frá, og við það kom fram þurr farvegr fram hjá suðrendanum á garðinum. Egyptar aftr á móti vissu ekkert um þetta, því að skýið, sem var eins og svartasta þoka, tók burt allt útsýni fyrir þeim; hinir konunglegu herskarar gátu ekkert á landi séð, er þeir bæri kennsl á, og Hebrear vissu ekki heldr neitt annað en það, að fœr vegr hafði myndazt í sjónum fram undan þeim, og það með, að þeir á nætrtíma ruddust þar áfram í birtu þeirri, er kom frá hinu upplýsta skýi. Egyptar vissu, að Hebrear héldu áfram, því að þeir heyrðu til þeirra á göngunni. Þeir þreifuðu sig áfram í myrkrinu á eftir þeim, hugsandi, að þar sem Hebrear fœri á undan, þar væri þó Egyptum óhætt að fara á eftir, og „fœrðist hvorugr herinn nær öðrum alla nóttina".

Snemma næsta morgun eftir svona lagaða för alla nóttina standa Hebrear þurrum fótum á sjávarströndinni austan megin við Rauðahafið. Egyptar aftr á móti eru enn staddir inni í skýinu mitt á milli beggja stranda. Hinum þungu vögnum þeirra var seinekið og hjólásarnir tóku að bila sökum hinnar slæmu fœrðar í blautri leðjunni á hinum uppþornaða sjávarbotni. Þá lét drottinn allt í einu glampa yfirnáttúrlegs ljóss falla yfir augu hinna andlega blinduðu Egypta, svo þeim skildist allra snöggvast, hver það var, sem þeir árangrslaust voru að berjast á móti. „Og á morgunvökunni leit drottinn yfir her Egypta ofan af eldstólpanum." Það, sem ofsœkendrnir sáu á því augnabliki, kom þeim felmtruðum og forviða til að hrópa: „Flýjum undan Ísraelsmönnum, því drottinn berst með þeim móti Egyptum!"

En nú var of seint orðið. Guðir Egyptalands veittu enga hjálp. Að boði Jehóva „útrétti Móses hönd sína út yfir hafið.

.... Og sjórinn féll að og huldi vagna og riddara í öllum faraós her, sem eftir þeim hafði farið út á hafið, svo ekki komst nokkur einn maðr af..... Svo frelsaði drottinn Ísraelslýð á þeim degi frá hendi Egypta, og þeir sáu hina egypzku menn liggja dauða á sjávarströndinni.“

Svona er frásaga biblíunnar um burtförina úr Egyptalandi.



## Koma séra Odds V. Gíslasonar.

Í fyrra að áliðnu ári sendi Brœðrasöfnuðr í Nýja Íslandi séra Oddi V. Gíslasyni, presti á Stað í Grindavík á Íslandi, áskoran um að koma yfir um og gjörast prestr sinn. Við því var þó naumast búizt, að hann sæi sér fœrt að taka þessari köllun, þar sem kunnugir menn vissu, að hann var maðr fátœkr og hafði mikla fjölskyldu, en söfnuðrinn, sem sendi honnm köllunarbréfið, mjög fámennr og með sínum bezta vilja allsendis ófœr, einn út af fyrir sig, til þess að veita honum jafnvel hin minnstu embættislaun, er hugsanlegt var að hann gæti komizt af með. All-sterk von var að vísu um það, að ef þessi þjóðkunni prestr með sitt alkunna starfsþrek, sinn heita kristindómsáhuga og sína miklu reynslu fengist til Nýja Íslands, þá myndi allr þorri fólksins í því byggðarlagi brátt sameina sig með Brœðrasöfnuði, að því er snertir prestsþjónustu og kirkjulega vinnu; en vissa var auðvitað engin um þetta, svo að flestum þótti víst lang-líklegast, að séra Oddr treysti sér eigi að verða við áskoran hins litla og fátœka safnaðar og koma vestr. Engu að síðr kom þó á útmánuðum skeyti frá honum um það, að í drottins nafni hefði hann þrátt fyrir alla erviðleika afráðið að koma til að gjörast prestr Brœðrasafnaðar. En lengi vel áræddu menn ekki að trúa þessu, og fulltrúa urðu víst fáir um komu hans þangað til það fréttist áreiðanlega, að hann væri á leiðinni.

Ásamt konu sinni og sjö mannvænlegum börnum þeirra, sem sum eru uppkomin (3 eru eftir á Íslandi), kom hann hingað til Winnipeg heill á hófi 17. Júlí; dvaldi hann hér að eins fáa daga, og lagði svo að kvöldi hins 20. ásamt öllum sínum hópi á stað áleiðis til Nýja Íslands, prédikaði í Selkirk tvisvar sunnudaginn hinn 22., og fór síðan næsta dag með gufubáti norðr alla leið.

Forseti kirkjufélagsins átti eigi sökum vanheilsu sinnar kost á að vera persónulega viðstaddr, þá er séra Oddr tók við hinu kirkjulega kennimannsembætti í Brœðrasöfnuði, en með bréfi dagsettu 19. Júlí setti hann hann inn í embættið.

Séra Oddr V. Gíslason er nú orðinn talsvert aldraðr maðr, en flestum ungum mönnum er hann fjörugri og hraustari. Hann er fœddr 8. Apríl árið 1836. Útskrifaðist hann 1858 úr lærða skólanum í Reykjavík, þar sem hann er fœddr og uppalinn, og af prestaskólanum 1860. Hann prestvígðist ekki fyr en löngu seinna, árið 1875 (28. Nóv.), og varð þá prestr að Lundi í Borgarfirði. Því prestakalli þjónaði hann þangað til 1878, er hann fékk Staðarprestakall í Grindavík innan Gullbringusýslu. Hélt hann því þangað til hann sagði því lausu þetta seinasta vor áðr en hann lagði á stað vestr. En eins og alkunnugt er hafði hann og auk embættisverkanna í prestakalli sínu á síðari árum mikilsverða, kristilega starfsemi á hendi, sem náði hringinn í kringum landið. Það eru bjargráða-framkvæmdir hans, sem hér er átt við, og hélt hann um hríð úti mánaðarriti („Sæbjörg") því máli til stuðnings. Almenna viðrkenning hafði starf hans fyrir löngu fengið á Íslandi, enda er að heyra á *Kirkjublaðinu*, sem annars minnist hans burtfarar-anda mjög virðulega og hlýlega, að kapp hafi verið á það lagt af mönnum þar heima að halda honum kyrrum, er það spurðist, að hann hefði í hug að fara.

Gefi nú góðr guð, að koma séra Odds V. Gíslasonar hingað yfir um til vor verði honum og hans til gæfu og blessunar, eins víst og vér hiklaust vonum, að það verði ómetanlegr ávinningr fyrir Brœðrasöfnuð og Nýja Íslandsbyggðina alla, og þá um leið fyrir kirkjufélag vort yfir höfuð, að hafa fengið þennan ötula og margreynda starfsmann til samvinnu með oss að hinu góða málefni guðs ríkis.

---

## Kirkjuþingssetningarform.

Forseti:

Heilagr ertu, drottinn, heimneski faðir, sem býr í hæstum hæðum; vér erum vanheilagir og bíðum þíns frelsis. Veit oss nú þá náð, sem þú hefir heitið, sem sonr þinn hefir oss afrekað,

og heilagr andi þinn flytr mönnunum, og allir þeir, er í alvöru biðja þig um þá náð, vissulega fá. Vér beygjum oss frammi fyrir hásæti náðar þinnar í auðmýkt hjartna vorra og biðjum þig hjartanlega um gjafir anda þíns, anda sannleiks og vísdóms, anda máttar og kraftar, anda kærleiks og eindrægni. Lát hann fjarlægja allan sérgæðingshátt og hroka frá oss, þjónum kirkju þinnar og erindsrekum þíns evangelíums, og varðveit oss frá því, að verða afvegaleiddir af eigingirni og syndsamlegum hvötum. Lát hann helga oss í þínum sannleika. Lát hann fá svo mikið vald yfir oss, að vér, fullir máttar og djörfungar, fáum stöðuglega leitað þess eins, að gjöra þinn heilaga vilja, gjöra son þinn dýrðlegan og uppbyggja þitt ríki. Lát hann biðja fyrir oss með óumræðilegum andvörpunum og leiðbeina oss í öllum vorum ráðagjörðum og ályktunum til Jesú Krists, hans, sem með þér og heilögum anda lifir og ríkir, einn sannr guð um aldir alda. Amen.

Allir kirkjuþingsmennirnir lesa þá hver með öðrum upphátt hina postullegu trúarjátning:

Eg trúi á guð föður almáttugan, skapara himins og jarðar.

Eg trúi á Jesúm Krist, hans einkason, drottin vorn, getinn af heilögum anda, fæddan af María mey, píndan undir Pontíus Pílatus, krossfestan, líflátinn og grafinn, niðrstiginn til heljar, risinn á þriðja degi aftr upp frá dauðum, uppstiginn til himins, sitjanda til hægri handar guðs föður almáttugs, þaðan komanda til að dæma lifendr og dauða.

Eg trúi á heilagan anda, — heilaga kristilega kirkju, samfélag heilagra, — fyrirgefning syndanna, — upprisu holdsins og eilíft líf.

Og þar á eftir lesa allir á sama hátt: Faðir vor, o. s. frv.

Forseti:

Með því að vér, kærir bræðr, höfum djörfung til að ganga inn í helgidóm guðs fyrir krossdauða Jesú Krists, sem er æðsti prestr yfir drottins húsi, þá látum oss í fullri sannfæring trúarinnar nálgast guð með einlægum hjörtum og hreinsuðum frá vondri samvizku, og látum oss hiklaust halda fastri játning trúar vorrar, því sá er trúr, sem fyrirheitið hefir gefið. Og látum oss sýna hver öðrum nærgætni og þannig hvetja hver annan til góðra verka.

Með þessum ummælum lýsi eg yfir því, að þetta kirkjuþing

(.. ársþing hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi) er sett samkvæmt venjum og reglum hinnar lút. kirkju vorrar, guði til dýrðar, kirkju Jesú Krists til uppbyggingar, og öllum þeim til blessunar, sem á hans nafn trúa, — í nafni guðs föður, guðs sonar og guðs heilags anda.

Amen.

---

## *ÁGRIP AF SÖGU VÍDALÍNSSAFNAÐAR.*

Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.

---

Við komu séra Jóns Bjarnasonar frá Íslandi 1884 hefst nýtt tímabil í hinni kirkjulegu og safnaðarlegu starfsemi Vestr-Íslendinga. Nýkominn frá Íslandi prédikaði hann um haustið hér í norðrhluta íslenzku byggðarinnar í Pembina Co., Dak. — Voru hér þá enn engir söfnuðir. Leiddi koma hans til nýs áhuga um safnaðamyndan.

Um vetrinn, í Janúar 1885, er svo haldinn almennr kirkjumálsfundr að Mountain. Sá fundr leiddi til hinnar kirkjufélagslegu sameiningar meðal íslenzkra safnaða. Á þeim fundi myndast eiginlega kirkjufélagið. Sú sameining vekr menn hér til samtaka í safnaðamyndan. Þegar á eftir er fundr haldinn í Hallson, og 7. Febr. er *Tungár-söfnuðr* myndaðr. Tilheyrðu þeim söfnuði þeir, er búsettir voru norðan Tungár og umhverfis Hallson og í söfnuð gengu, en það voru nálega allir. — Hreifing þessi var öllum norðrhluta byggðarinnar sameiginleg. Sama vetrinn (1885) gengust þeir Gísli Jónsson, Björn Skagfjörð, Guttormr Sigurðsson, Einar Guðmundsson og fleiri merkisbœndr á hinum svo nefndu Austr-Sandhæðum fyrir safnaðarmyndan þar. Höfðu menn fund með sér um vorið að heimili Bjarna Pétrssonar, og myndaðist þar *Austr-Sandhæðasöfnuðr*.

Á 1. ársfundi kirkjufélagsins í Winnipeg mœtir Gísli Jónsson sem fulltrúi þess safnaðar. Er safnaðarins að litlu öðru getið það ár (samanber sýnisblað *Sam.* frá Desember 1885). Árið eftir, 1886, er Guðmundr Einarsson erindsreki á þinginu að Garðar. — Það vor, skömmu fyrir þing, klofnar Tungársöfnuðr og Hallsonsöfnuðr myndast. En um haustið sameinast svo hinn hluti Tungársafnaðar Austr-Sandhæðasöfnuði, og mynduðu

þeir sameiginlega nýjan söfnuð: *Vídalínssöfnuð.* Þannig hverfa Tungár- og Austr-Sandhæðasöfnuðir, en Hallsonsöfnuðr og Vídalínssöfnuðr myndast á sömu stöðvum af nálega hinu sama fólki. — Frá þessari breyting er stuttlega skýrt í Febrúar-nr.i *Sam.* 1887.

Sumarið 1886 varð séra Friðrik J. Bergmann prestr. Tók hann við embætti 4. dag Júlímánaðar. Byrjuðu bráðlega hans uppbyggilegu afskifti af safnaðarmálum í norðrhluta byggðarinnar, er áðr hafði engrar reglulegrar prestsþjónustu notið. Átti hann mestan þátt í sameining safnaðanna og myndan Vídalínssafnaðar. Hann er þannig forseti á sameiningarfundinum 20. Nóv. 1886. Fundargjörðin frá þeim fundi er hin elzta í vörzlum safnaðarins. Á ársfundi um vetrinn gengr Vídalínssöfnuðr í kirkjufélagið. Strax um haustið verðr séra Friðrik þjónandi prestr í Vídalínssöfnuði og þjónar honum að einum fimmta hluta í 2 ár. Við sívaxandi annríki hans hlaut þjónusta hans í Vídalínssöfnuði að fara minnkandi hin síðari árin, þó hann héldi stöðugt áfram að flytja hér guðsþjónustur og vinna prestsverk. Var því á árunum 1889—1892 almennt í söfnuðunum óskað eftir presti, er gæti haft aðsetr sitt innan safnaðar. — Þrátt fyrir ýmsar tilraunir í þá átt var söfnuðrinn í þeim skilningi prestlaus þar til í Júlímánuði 1893, er sá, er þetta ritar, nývígðr tók hér við prestsembætti.

Á þessum árum var, þrátt fyrir hinn tilfinnanlega skort á prestsþjónustu, haldið uppi sunnudagsskóla. Var Jón Skanderbeg hinn fyrsti hvatamaðr skólans. Hin síðustu ár hefir hann blómgazt mjög og honum bætzt góðir og ötulir kennendr.

Haustið 1887 er fyrst vakið máls á kirkjubygging. Á ársfundi í Janúar 1888 eru til í loforðum $325. Var þá samþykkt að byrja um vorið. Í byggingarnefnd voru þeir Eggert Gunnlaugsson, Stígr Þorvaldsson, Bjarni Pétrsson, Matúsalem Ólason og Guðmundr Einarsson. — Eigi var þó kirkjan fullgjör að innanbyggingunni til fyr en 1892, og þá átti kvennfélag safnaðarins mestan þátt í framkvæmdinni. Á síðast liðnu ári gaf þetta félag kirkjunni ágæt sæti og prédikunarstól, er kostaði allt að $140. — Hefir söfnuðrinn á þessu ári og nú á undan kirkjuvígslunni verið einhuga um að endrbæta kirkju sína sem bezt og varið til þess all-miklu fé og mikilli fyrirhöfn.

Naumast mun nákvæmr byggingarreikningr nú til, en óhætt mun að ætla, að kirkjan hafi nú kostað söfnuðinn fremr yfir en undir $1000, og af þeirri upphæð skuldar hann nú einungis um $50.

Kirkjan er 36x24 fet auk fordyris. Hvelfingin er 17 fet á hæð. Tveir járnbitar ganga í gegnum kirkjuna. Sætin og prédikunarstóll eru úr eik. Standþilið er með eikarlit, en veggir og hvelfing hvít.

Sunnudaginn 1. Júlí var kirkjan vígð af forseta kirkjufélagsíns með aðstoð allra kirkjufélagsprestanna að viðstöddum fjölda fólks. Séra Jón Bjarnason prédikaði við það tœkifœri.

Söfnuðrinn hafði prýtt kirkjuna eftir föngum. Merki Krists og krossins hafði þar ekki gleymzt. Og þessi orð, haglega gjörð, stóðu innan á stafni kirkjunnar:

„Ef drottinn byggir ekki húsið, þá erviða smiðirnir til einskis“ (Sálm. 127, 1).

það sé ætíð einkunnarorð í allri starfsemi Vídalínssafnaðar og hinnar nývígðu kirkju hans.

---

## BŒNIN

*Sálmr eftir séra Lárus Halldórsson.*

(Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.)

1. Sem smábörn föður biðja blíð,
þig bið eg, guð minn, ár og síð.
þú allt mitt heyrir hjartans mál
og hvað sem býr í minni sál;
það sæla mín og unan er,
frá öllu segja, faðir, þér.

2. Mér bœnin veitir fró og frið,
í freisting, stríði, kraft og lið;
því þér er allr þróttr frá
og þér er einskær friðr hjá,
og hann þú, guð minn, gefr þeim,
sem grátnir biðja þess í heim.

3. Ó, góði guð, eg þakka þér,
að þannig viltu leyfa mér

með alla mína synd og sekt
og sálarnauð og andans nekt,
að nálgast þig og náð að fá
þér, náðar faðir, sjálfum hjá,

4. Í Jesú nafni blítt eg bið:
mig bænin tengi æ þig við,
því Jesú nafn það athvarf er,
sem eitt fær djörfung gefið mér,
og von og traust og vörn og hlíf
og vissu' um eilíft dýrðar líf.

---

Hinn 17. Júlí andaðist prófessor *Gísli Johnson* í Kristjaníu í Norvegi, og hefir lúterska kirkjan þar misst einn af sínum ágætustu sonum og merkilegustu starfsmönnum. Hann var á 72. árinu, er hann lézt. Hans var fyrir rúmlega hálfu öðru ári rækilega minnzt hér í blaðinu af séra Friðrik J. Bergmann („Sam.", Jan. 1893), og gaf 70 ára afmæli hans, er þá var fyrir skömmu afstaðið, nefnilega 10. Sept. haustið á undan, tilefni til þeirrar greinar. Aðalatriðin í hinum blessunarríku framkvæmdum Johnsons fyrir kristnina í Norvegi eru þar tekin fram. Hann varð kennari við háskólann norska árið 1860, og var hann þá orðinn maðr stórfrægr jafnt fyrir lærdóm og áhuga á útbreiðslu guðs ríkis. Hafði hann einum sex árum áðr hleypt á stað „innanlands-missíóninni" norsku, sem er ákaflega víðtæk og þýðingarmikil starfsemi. Vér sleppum því að nefna önnur sérstök kristindómsfyrirtæki norsku kirkjunnar, sem honum eiga tilveru sína að þakka, og skulum að eins taka fram,að hann hefir haft meiri þýðing fyrir kristindóm Norðmanna heldr en nokkur annar hans samtíðarmanna.

Sérstök ástæða er fyrir oss Íslendinga að minnast þessa göfuga norska kirkjumanns fyrir þá sök, að hann var meðfram af íslenzku bergi brotinn. Afi hans (faðir föður hans) var alíslenzkr maðr, Gísli Jónsson að nafni, fæddr á Íslandi 1758. Sá Gísli var hálfbróðir Jóns Espolíns hins alkunna sagnfræðings. Faðir þeirra var Jón Jakobsson á Espihóli, sýslumaðr Eyfirðinga. Gísli, sem var all-miklu eldri en Jón Espólín, ólst eigi upp með honum hjá föður þeirra, heldr hjá ömmu sinni Guðrúnu

Jónsdóttur á Búðum. Dvaldi hann þar þangað til hann var frumvaxta, en fór þá utan og varð seinna prestr í Norvegi og andaðist í Arendal 1829. Gísli prestr átti mörg börn, og einn sona hans var Georg Daniel Barth Johnson, „ingeníör", mjög merkr maðr og kunnr fyrir þjóðvegagjörðir víðsvegar um Norveg. Dó hann árið 1872. Elzti sonr hans var Gísli Kristján Johnson, hinn frægi prófessor, er þegar var minnzt sem nýlátins.

Þess er getið í norskum blöðum nú um leið og sagt er frá fráfalli prófessors Johnsons, að afi hans, sem hann var heitinn eftir, hafi, eins og margir landar hans, verið latínumaðr mikill og orkt ýms ljóð á þeirri tungu. Hann fann sárt til þess, að föðurland hans Ísland við friðarsamninginn í Kiel var slitið frá Norvegi, og árið 1815 samdi hann ritling á norsku („Nokkur orð til móðurlandsins Norvegs"), þar sem hann hélt því fram, að Norðmenn heimtuðu Ísland aftr af Dönum. Ritlingr þessi var prentaðr, en kom þó aldrei opinberlega fram, og kvað nú vera mjög sjaldfenginn

---

*Skrefsrud*, hinn stórfrægi norski trúboði, sem ásamt með *Börresen*, dönskum manni, hefir um mörg ár unnið að missíón austr í Santalistan á Indlandi og kristnað þar fjölmennan þjóðflokk, er um þessar mundir á ferð meðal lúterskra safnaða Norðmanna í Bandaríkjum í því skyni að bera fram fyrir þá málefni Santal-kristniboðsins og safna hjá þeim fé því til stuðnings. Skrefsrud menntaðist til kristniboðs á Þýzkalandi og lagði svo bláfátækr og algjörlega upp á eigin býti á stað alla leið austr til Indlands til hins mikla æfistarfs, er hann eins og af guðlegum innblæstri vissi að þar lá fyrir sér meðal heiðingjanna. Og fyrir sína sterku trú, sitt fram úr skaranda þrek og andans atgjörvi tókst honum með guðs hjálp að koma svo miklu til leiðar þar í heiðingja-heiminum, að það má skoða sem annað kraftaverk. Santalistan, sem liggr sunnan í Himalaja-fjöllum, er nú að miklu leyti kristið land með fjölda af skólum og kirkjum og ótrúlega mikilli alþýðumenntan. — Skrefsrud er hálærðr maðr, einkum sem málfræðingr, og kann fleiri tungumál en, ef til vill, nokkur annar núlifandi manna.

---

Forstöðumaðr prestaskólans í Reykjavík í stað séra Helga heitins Hálfdanarsonar er dócent séra Þórhallr Bjarnarson nú orðinn, en í hans embætti aftr settr Jón Helgason, kandídat, sonr séra Helga. Hefir Jón nýlega, með opinberum styrk, að því er oss skilst, gjört ferð til Þýzkalands, komið þar á helztu lærdómsstöðvar lútersku guðfræðinnar, og kynnt sér fyrirkomu-

lagið, andlega lífið og hag kirkjunnar yfir höfuð. Er hann með þessu að undirbúa sig undir hið tilvonanda starf sitt við prestaskólann heima. Hugleiðingar nokkrar frá þessari þýzkalandsferð standa í „Kirkjublaðinu".

---

Á fundi, sem skólanefnd kirkjufélagsins hélt hér í Winnipeg í byrjan þessa mánaðar, var ákveðið, að bókasafnið, sem kirkjuþingsmenn keyptu og gáfu kirkjufélaginu hinum fyrirhugaða skóla þess til handa, skyldi fyrst um sinn geymt hjá ritstjóra *Sam.*, þar sem það hefir áðr varðveitt verið síðan það kom frá Íslandi, og var honum um leið gefin heimild til að veita einstökum mönnum, sem óska kynni, aðgang að því, að svo miklu leyti sem hann sæi, að enginn skaði hlytist af fyrir safnið. Formaðr skólanefndarinnar er eins og áðr séra Friðrik J. Bergmann og féhirðir Friðjón Friðriksson.

---

Fjársamskotaloforðin til bókasafnsins, sem gjörð voru á kirkjuþinginu í sumar, greiðist sem fyrst til ritstjóra *Sam.*, svo hann bráðlega geti borgað það, sem eftir stendr af bókasafnsverðinu.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., sendir út „Sameininguna".

---

Hr. **Sigrbjörn Sigrjónsson** (164 Kate St.) hefir frá útgafunefnd „Sameiningarinnar" fengið umboð til að innkalla hinar útistandandi skuldir blaðsins, nema frá kaupendum í Dakota, þar sem séra **Friðrik J. Bergmann** er innköllunarmaðr. Féhirðir blaðsins er hr. Jón Blöndal, 545 William Ave.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fjórði ársfjórðungr 1894.

1. lexía, sunnud. 7. Okt.: Jesús í Nazaret: Lúk. 4, 16—30.
2. lexía, sunnud. 14. Okt.: Fiskidráttrinn: Lúk. 5, 1—11.
3. lexía, sunnud. 21. Okt.: Sabbatsdagr í Kapernaum: Mark. 1, 21—34.
4. lexía, sunnud. 28. Okt.: Limafallssjúkr maðr læknaðr: Mark. 2, 1—12.

---



---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave. Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.